# Þjónn Gula Mannsins

Skáldsaga eftir

W. W. Jacobs.

Þýtt hefir

Séra G. Árnason.

Sögusafn Heimskringlu

WNNIPEG:
The Viking Press, Limited
1919

# Þjónn gula mannsins.

## FYRSTI KAPITULI

Búð Salómons Hyams stóð við mjóa götu, sem lá út frá Commercial stræti í Lundúnum. Gluggarnir í henni voru fullir af allskonar veðsettum munum; þar voru gamaldags úr og sjómanna stígvél og ótal margt annað, sem gat uppfylt margra þarfir og fallið ólíkum mönnum í geð. Vindlaknippi, sem voru auglýst sem alveg einstök að gæðum, fengust þar fyrir ótrúlega lágt verð; og þykk og þung silfurúr voru sögð sterk og vönduð, eins og til að bæta upp fyrir það sem þeim var ábótavant í útliti. Meðfram hliðinni á búðinni var þröngur gangur og í honum voru dyrnar, sem viðskiftavinir Salómons urðu að ganga inn um. Uppi yfir dyrunum voru þrjár gyltar kúlur, hið venjulega merki okrara. Flestir, sem áttu skifti við Salómon, komu vongóðir inn til hans; en þegar þeir voru búnir að prútta og þjarka við hann um verðmæti munanna, sem þeir færðu honum, og fóru aftur út frá honum, voru þeir orðnir bölsýnir og trúlitlir á sannsýni mannanna.

En Salómon var rólyndur maður, sem lét þess konar smámuni ekki á sig fá. Þegar að ölvaður viðskiftavinur kom inn til hans og reyndi að ná út

sparifötunum sínum í skiftum fyrir farmiða með strætisvagni eða eitthvað þess konar, þá bauð Salómon honum að setjast niður, meðan aðstoðarmaður hans fór að ná í hjálp til að koma honum út aftur. Eða ef það var einhver gömul kerling, sem ætlaði að fá óvanalega góð kjör með því að segja Salómon langa raunasögu, þá varð endirinn jafnan sá, að hún varð að eiga við aðstoðarmanninn og varð fegin að taka við því, sem henni var boðið. Salómon lét ekki mikið yfir sér og verzlun sinni; en vinir hans sögðu, að hann mundi geta hætt og átt náðuga daga það sem eftir væri, hvenær sem hann vildi.

Það var einu sinni í nóvembermánuði að áliðnum degi, í köldu og hráslagalegu veðri, að Salómon stóð í búðardyrunum sínum, til þess að fá sér ferskt loft; hann mundi eftir því einstöku sinnum, að hreint loft var gott fyrir heilsuna. Loftið var samt ekki sem allra hreinast, því sót og allskonar ódaunn blandaðist saman í því, en samt var það heilsusamlegt, eins og tærasta fjallaloft, í samanburði við mygluþrungna fúaloftið inni í búðinni. Í brennivínskránni hinu megin við ganginn var búið að kveikja á gasinu og ljósið skein út í gegnum óhreinu rúðurnar. Það var merki þess, að þar byrjaði bráðum glaumur og gleði eftir myrkur og drunga dagsins.

Salómon var ekki vanur að kveikja snemma; margir af viðskiftavinum hans kusu heldur að heimsækja hann og eiga kaup við hann í rökkrinu. Hann ætlaði að fara að halla aftur dyrunum og snúa inn í búðina aftur, en þá kom hann auga á sjómann, sem stóð úti á götunni og horfði inn um gluggann. Salómon néri höndunum saman ofur-

hægt. Þessi sjómaður bar það einhve. 'eginn með sér, að hann hefði meira í buddunni, en sjómenn vanalega hafa, og það það voru margir hlutir í glugganum, sem maðurinn hafði að vísu ekkert við að gera, en sem Salómon vildi samt gjarnan geta selt honum.

Maðurinn hætti að horfa inn um gluggann og það var eins og hann ætlaði sér að halda áfram, en svo staðnæmdist hann, sem hann væri á báðum áttum fyrir framan okrarann.

"Þú ert að hugsa um að fá þér úr," sagði okrarinn mjög vingjarnlega. "Gerðu svo vel að koma inn."

Salómon vék sér inn fyrir borðið í búðinni og beið eftir að hinn tæki til máls.

"Eg ætla ekkert að kaupa og eg ætla ekki að fá lán út á neitt. Hvernig lízt þér á það?" sagði sjómaðurinn.

Salómon, sem ávalt vildi helzt tala blátt áfram, einkum um alt er laut að verzlun, leit hálf ón... lega til sjómannsins undan loðnum augabrúnunum.

"Við gætur talað dálítið saman, við ...ir," sagði sjómaðurinn; "við getum máske ... saman, ekki hér, heldur inni í stofunni yfir ... af einhverju, sem hlýjar manni."

Salómon var á báðum áttum. Hann hafði að vísu ekkert á móti því að eiga kaup við sjóm...inn og hann gilti einu þótt þau væru ekki í ströng... samræmi við lögin; en hann mundi eftir öðru... sjómanni, sem hafði komið með alveg sömu uppá...ngu, og sem hafði beðið hann að lána sér hundr... dollara gegn einfaldri skuldaviðurkenningu, ...ar þeir voru búnir að drekka saman þrjú glös af ...ami. Að vísu var langt liðið síðan þetta skeði,

en honum sárnaði það enn þá, þegar hann hugsaði til þess.

"Hvað er það sem þú hefir að bjóða?" spurði hann.

"Það er nokkuð, sem er ef ef til vill of dýrt fyrir þig að kaupa," svaraði hinn drembilega. "Eg get reynt fyrir mér annars staðar, hjá einhverjum, sem hefir ráð á að taka boði mínu. Til hvers er þessi náungi þarna að reka smettið fram í dagsljósið?"

Salómon skipaði aðstoðarmanni sínum, sem hafði komið fram í búðina svo lítið bar á, að líta eftir búðinni, meðan hann færi með gestinn inn í stofuna fyrir aftan búðina til að tala við hann. Svo opnaði hann hlerann í búðarborðinu og bað sjómanninn að koma inn með sér. Hann fór sjálfur á undan inn í litla og óhreina kompu bak við búðina. Þar var eldastó og sjóðandi vatnsketill stóð á henni, og á borðinu voru te-áhöld. Okrarinn benti gesti sínum að taka sér sæti í fornfálegum hægindastól og svo gekk hann að skáp og tók þar út rommflösku, sem var búið að drekka hér um bil einn þriðja hlutann úr, og tvö glös.

"Ep tek te," sagði sjómaðurinn og leit um leið löngunaraugum til flöskunnar.

"Hvað er að heyra þetta!" sagði okrarinn og reyndi að láta sem hann væri ánægður. "Þú hefir víst lyst á einhverju öðru en te. Taktu eitt glas af þessu."

"Te, og ekkert annað," sagði hinn. "Eg meina það sem eg segi."

Okrarinn lét ekkert á því bera, að sér þætti miður. Hann lét flöskuna aftur í skápinn, tók vatnsketilinn og fór að búa til te. Það var sjón, sem hefði getað gefið efni í góða bindindisræðu,

Gyðingurinn, langur og magur, og hinn þrekvaxni sjómaður, þar sem þeir sátu saman yfir tebollunum. En Salómon varð brátt órólegur. Hann vildi fara að komast að aðalefninu; hinn fór sér að engu óðslega, drakk te og át brauð, eins og honum væri mest um hug... að njóta þess sem fyrir hann var sett. Aftur ... Salómon hins sjómannsins, sem hafði haft út ... honum rommglösin þrjú fyrir ekkert, og hann var óblíður á svip, þegar sjómaðurinn ýtti til hans bollanum í fjórða skiftið í því skyni, að hann fylti hann.

"Nú væri gott að fá eitthvað að reykja," sagði gesturinn um leið og hann var búinn úr fjórða bollanum. "Engan rudda, mundu það! Æ, þetta er þó notalegt! Og það er fyrsta almennilega hressingin, sem eg hefi fengið síðan eg steig fæti á land fyrir fimm dögum."

Gyðingurinn stundi og tók upp tvo vindla; hann rétti gesti sínum annan þeira. Svo fóru þeir báðir að reykja og Gyðingurinn varð jafnt og stöðugt að verða órólegri, en hinn teygði fæturna fram á gólfið og reyndi að njóta þægindanna sem bezt.

"Ert þú gefinn fyrir það, að spyrja spurninga?" spurði hann loksins.

"Nei," svaraði okrarinn og klemdi saman varirnar eins og til þess að sýna, að hann væri enginn málskarfsmaður.

"Gerum ráð fyrir," sagði sjómaðurinn og hallaði sér áfram, "að einhver kæmi til þín og segði: Þarna er þessi bölvaður sláni, sem þú hefir í búðinni að gægjast inn um dyrnar."

Okrarinn spratt upp og skammaði aðstoðarmann sinn í gegn um hálf-opnar dyrnar; svo skelti

hann hurðinni aftur og dró litla blæju fyrir rúðuna, sem var á henni.

"Gerum ráð fyrir," sagði sjómaðurinn, þegar okrarinn var seztur aftur niður, "að einhver kæmi til þín og bæði þig um tuttugu og fimm hundruð dollara fyrir eitthvað? Hefirðu þá til?"

"Ekki hér," sagði okrarinn, sem var farið að gruna margt. "Eg geymi ekki peninga hér."

"En þú gætir náð í þá?" spurði hinn.

"Við skulum sjá til," svaraði okrarinn. "En tuttugu og fimm hundruð dollarar eru miklir peningar. Maður er fleiri ár að vinna fyrir því."

"Eg kæri mig ekkert um að heyra nokkuð um það," svaraði sjómaðurinn. "En sjáðu nú til. Ef eg bæði þig um tuttugu og fimm hundruð dollara fyrir nokkuð og þú vildir ekki borga þá, hvernig gæti eg þá vitað, að þú gerðir ekki lögreglunni aðvart, ef eg tæki ekki það sem þú byðir,"

Okrarinn rétti upp báðar hendur, eins og hann væri alveg forviða á að annað eins og þetta skyldi vera borið á sig.

"Eg skyldi finna þig í fjöru, ef þú gerðir það," sagði sjómaðurinn. "Það skyldi verða sá versti dagur, sem þú hefðir lifað. Viltu taka það eða sleppa því fyrir það verð, sem eg set upp, og ef þú sleppir, að lofa mér að fara eins og eg kom?"

"Eg lofa því," sagði okrarinn hátíðlega.

Sjómaðurinn lagði frá sér vindilinn á tebakkann og eldurinn dó í honum af bleytunni, sem var á bakkanum; svo hnepti hann frá sér treyjunni og tók varlega af sér strigabelti, sem hann hafði utan um sig miðjan. Hann hélt á beltinu í hendinni og leit hikandi á Gyðinginn eða hurðina. Svo tók hann eitthvað, sem var vafið innan í bómullardulu

úr vasa á beltinu. Hann fletti dulunni í sundur og lagði á borðið stóreflis demant, sem glitraði með ótal litbrigðum undir gasljósinu.

Gyðingurinn rak upp undrunaróp og rétti fram höndina eftir demantinum, en sjómaðurinn ýtti honum lengra frá.

"Láttu hann vera," sagði hann illilega. "Eg ætla ekki að láta þig leika á mig."

Hann velti demantinum með fingrinum eftir borðinu, og hinn sat álútur og horfði á hann, eins og hann ætlaði að gleypa hann með augunum. Svo lagði hann demantinn í lófann á Gyðingnum og lét hann liggja þar örfáar sekúndur.

"Tuttugu og fimm hundruð dollara," sagði hann um leið og hann tók demantinn aftur.

Okrarinn hló eins og hann var vanur að hlæja, þegar hann var að gera kaup, og sá hlátur kom honum oft að góðu haldi.

"Eg skal gefa þér fimm hundruð dollara fyrir hann," sagði hann.

Sjómaðurinn vafði dulunni aftur utan um demantinn.

"Sex hundruð," sagði Gyðingurinn, "og eiga það á hættu, hvort eg tapa á honum eða ekki.

"Hann kostar tuttugu og fimm hundruð, hvorki meira né minna," sagði sjómaðurinn um leið og hann lét beltið á sig aftur.

"Sjö hundruð," sagði okrarinn eins ísmeygilega og hann gat.

"Hættu þessu," sagði sjómaðurinn og hvesti augun á Gyðinginn. "Eg ætla ekki að prútta um þetta við þig eða nokkurn annan. Eg hefi ekki mikið vit á demöntum, en eg veit að þessi demant er mikils virði. Líttu á."

Hann fletti upp skyrtuerminni og sýndi langt ör eftir nýgróið sár á handleggnum á sér.

"Eg lagði lífið í hættu fyrir þennan stein," sagði hann með hægð. "Eg met líf mitt ekki minna en tuttugu og fimm hundruð dollara. Það er virði það margra þúsunda, eins og þú veizt. En hvað um það! Góða nótt. Hvað skulda eg þér fyrir teið?"

Hann stakk hendinni ofan í buxnavasa sinn og dró upp nokkra smápeninga.

"Það er ekki hættulaust að verða af með þennan stein," sagði Gyðingurinn og ýtti til baka peningunum, sem hinn rétti fram. "Hvaðan er hann? Á hann sér merkilega sögu?"

"Ekki í Norðurálfunni," svaraði sjómaðurinn. "Eftir því sem eg veit bezt, erum við einu hvítu mennirnir, sem vitum að hann er til. Meira segi eg þér ekki."

"Er þér sama, þó þú bíðir á meðan eg fer og næ í kunningja minn til að skoða hann?" spurði Gyðingurinn. "Þú þarft ekki að vera hræddur við að láta hann sjá hann; hann er embættismaður og þögull eins og gröfin."

"Eg er ekki hræddur," svaraði sjómaðurinn. "En engin brögð, mundu það. Eg er ekki maður, sem hægt er að leika við, skal eg segja þér."

Hann settist aftur á hægindastólinn og tók við öðrum vindli, sem að honum var réttur. Hann tók ekki augun af Gyðingnum, sem tók hatt sinn af borðinu.

"Eg kem aftur eins fljótt og eg get. Þú verður ekki farinn, þegar eg kem aftur?"

"Nei, engin hætta á því," svaraði sjómaðurinn. "Eg stend við það sem eg segi. Eg hangi ekki

yfir því, sem eg ætla að gera eða eyði tímanum í það að þjarka."

Þegar Gyðingurinn var farinn út, fór hann að reykja í ró og næði. Hann veitti því engan gaum, að búðarþjónninn leit inn við og við til þess að gá að að alt væri með feldu. Það var óvanaleg að Salómon skildi eftir ókunnugan mann einan í stofunni, og honum fanst svo mikil ábyrgð hvíla á sér, að hann varð guðs feginn þegar húsbóndi hans kom aftur með annan mann með sér.

"Þetta er vinur minn," sagði Salómon um leið og þeir komu inn í stofuna og létu aftur hurðina. "Þú ættir að láta hann sjá steininn."

Sjómaðurinn tók aftur af sér beltið og tók demantinn úr umbúðum sínum og hélt á honum í lófanum. Hinn gerði enga tilraun til að taka hann, heldur velti honum við með fingrinum og skoðaði hann nákvæmlega.

"Ferðu bráðum í burtu aftur?" spurði hann í þægilegum rómi.

"Á fimtudagskvöldið," svaraði sjómaðurinn. "Steinninn kostar tuttugu og fimm hundruð dollara. Hann hefir máske sagt þér það? Og eg slaka ekkert til á verðinu."

"Rétt er það," sagði hinn. "Og hann er þess virði."

"Þetta líkar mér að heyra," svaraði sjómaðurinn ákafur.

"Eg vil eiga skifti við þá, sem vita hvað þeir vilja," sagði hinn; "það er fyrirhafnar minst. En ef við kaupum hann fyrir það verð, þá verður þú að lofa okkur einu. Þú verður að þegja og þú mátt ekki drekka dropa af áfengi fyr en þú ert kominn í burtu."

"Þú þarft ekki að vera hræddur um að eg drekki," sagði sjómaðurinn; "eg forðast það sjálfs mín vegna."

"Hann er bindindismaður," skaut Salómon inn í.

"Nei, það er eg ekki," sagði sjómaðurinn með talsverðum þjósti.

"Hvers vegna drekkur þú ekki?" spurði vinur Salómons.

"Það er nú bara fyrirtekt úr mér," sagði sjómaðurinn og klemdi saman varirnar til merkis um, að það þýddi ekki að spyrja hann frekar út í það.

Án þess að segja meira sneri hinn sér að Salómon, sem tók peningaveski upp úr vasa sínum og taldi fram peningana. Sjómaðurinn tók við seðlunum og skoðaði þá í krók og kring, svo vafði hann þeim saman og stakk þeim í vasa sinn. Síðan tók hann demantinn þegjandi og lagði hann á borðið. Salómon tók hann upp með skjálfandi fingrum og skoðaði hann nákvæmlega með sýnilegri ánægju.

"Þið hafið gert reyfarakaup," sagði sjómaðurinn. "Góða nótt. Eg vona ykkar vegna, að engan gruni að eg hafi selt steininn. Hafið þið augun hjá ykkur og treystið engum. Verið varir um ykkur, þegar þið sjáið einhvern dökkan á hörundslit. Eg er feginn að vera laus við hann."

Svo kinkaði hann kolli til beggja og gekk hnakkakertur út úr búðinni, eins og einhverju fargi hefði verið létt af honum.

Okrarinn og vinur hans, Leví, sátu lengi eftir að hann var farinn, innan luktra dyra og virtu fyrir sér demantinn.

"Það er stórmikil áhætta," sagði okrarinn. "[illegible]einar eins og þessi segja vanalega til sín."

"Öllu góðu fylgir einhver áhætta," sagði hinn. "Þú getur varla búist við að fá annað eins happ og þetta án þess að eiga eitthvað á hættu.

Hann tók steininn upp aftur og horfði á hann ástúðlega. "Hann er einhvers staðar frá Austurlöndum. Hann er illa slípaður, en hann er afbragðs góður, konungur meðal gimsteina."

"Eg kæri mig ekki um að lenda í vandræðum við lögregluna," sagði okrarinn um leið og hann tók demantinn frá Leví.

"Þú talar rétt eins og þú hefði lánað fáeina dollara út á stolna yfirhöfn," svaraði Leví óþolinmóðlega. "Þess konar áhætta — og þú hefir oft tekið hana á þig — er ekki ómaksins verð. En þetta — það hleypir í mann hita að líta á steininn."

"Jæja, það er þá bezt að eg skilji hann eftir hjá þér," sagði Salómon. "Ef þú kemur honum í það verð, sem er sanngjarnt, þá ætti eg ekki að þurfa að vinna framar."

Leví tók við demantinum og lét hann í insta vasann, en eigandinn horfði á hann, eins og hann væri hálf kvíðafullur.

"Gættu nú að þér, að ekkert slys komi fyrir þig í kvöld," sagði hinn.

"Þakka þér fyrir ráðlegginguna," sagði hinn og gretti sig. "Eg líklega gæti að mér sjálfs mín vegna."

Hann drakk glas af heitu whisky, hnepti að sér yfirhöfninni og gekk blístrandi út úr búðinni. Þegar hann var kominn fram í dyrnar, kallaði okrarinn á hann inn aftur.

"Ef þú vilt heldur fara heim í kerru, þá skal eg borga leiguna."

"Eg fer með strætisvagninum. Þú ert að verða

of eyðsluhamur, Salómon. Og hugsaðu þér bara, hvað það væri smellið, að sitja við hliðina á vasaþjóf með þetta á sér."

Hann bandaði með hendinni til vinar síns og fór. Okrarinn stóð í dyrunum og horfði á eftir honum ygldur á brún. Hann sá hann fara inn í strætisvagn á næsta horni. Svo fór hann aftur inn í búðina og fór að hugsa um venjuleg störf sín, sem fálust í því, að hækka verð á hinu og þessu dóti, sem helzt var keypt þar í nágrenninu.

Klukkan tíu var búðinni lokað. Búðarþjónninn flýtti sér að láta hlerann fyrir gluggana, til þess að missa sem minst af hvíldartímanum. Hann svaf annarsstaðar. Þegar hann var farinn, borðaði Salómon kvöldverðinn, og svo settist hann niður, kveikti sér í vindli og sat og hugsaði um viðburði dagsins fram á miðnætti. Svo fór hann upp stigann, upp í svefnherbergið sitt, hæst ánægður með hagi sína, og þótt hann hefði nóg að hugsa um, sofnaði hann fljótt; en hann var ekki búinn að sofa lengi, þegar hann vaknaði við það, að einhversstaðar var barið að dyrum með óskaplegum gauragangi.

---

## ANNAR KAPITULI.

Hann var að dreyma og hávaðinn blandaðist saman við drauminn og varð hluti af honum. Hann þóttist vera kominn niður í námu, þar sem menn voru að brjóta demanta með stórum hömrum úr berginu. Demantarnir voru svo stórir, að honum fanst sinn demantur vera smár í saman-

burði við þá. En svo vaknaði hann til fulls, settist upp og néri augun. Hávaðinn ætlaði alveg að æra hann; og honum var meinilla við allan hávaða; hann vildi helzt hafa kyrlátt og rólegt í kring um sig og reka verzlun sína svo lítið bæri á. Honum fanst að svona hávaði um miðja nótt hlyti að standa í einhvers konar sambandi við lögregluna; og það var ekki um það að villast, að það voru hans dyr, sem barið var á. Hann grunaði að eitthvað ilt væri á seiði og stökk fram úr rúminu; hann gekk að glugganum og opnaði hann hægt og gægðist út. Daufa ljósglætu lagði frá lampanum, sem var á næsta götuhorni og við hana sá hann mann, sem stóð við dyrnar.

"Hver er þar?" kallaði hann ofan.

Rödd hans heyrðist ekki fyrir hávaðanum og gauraganginum fyrir neðan.

"Hvað viltu?" grenjaði hann. "Hvað viltu, segi eg?"

Sá sem við dyrnar var, hætti að berja, færði sig nokkur skerf aftur á bak og leit upp í gluggann.

"Komdu ofan og opnaðu hurðina," sagði hann; og Gyðingurinn þekti rödd sjómannsins, sem hafði selt honum demantinn.

Gyðingnum fór ekki að verða um sel. Hann bað sjómanninn að gera ekki meiri hávaða. Svo kveikti hann á kerti, klæddi sig í snatri og fór niður stigann með kertið í hendinni tautandi í hálfum hljóðum við sjálfan , hvað þetta mundi eiga að þýða.

"Hvað viltu mér?" spurði hann áður en hann opnaði dyrnar.

"Hleyptu mér inn og eg skal segja þér það," svaraði hinn; "eða eg skal kalla það inn um skrá-

argatið, ef þú vilt það heldur."

Gyðingurinn setti kertið á búðarborðið, dró lokuna frá hurðinni og opnaði hana varlega. Sjómaðurinn kom inn, og jafnskjótt og Gyðingurinn hafði látið hurðina aftur, vatt hann sér upp á búðarborðið og settist þar.

"Það er alveg rétt að vera við öllu búinn," sagði sjómaðurinn og benti á skammbyssu, sem Gyðingurinn hélt á í hægri hendinni. "Þú kant vonandi að fara með svona vopn?"

"Hvað viltu?" spurði Gyðingurinn ergilegur og stakk hendinni aftur fyrir sig. "Er þetta réttur tími til að koma og vekja heiðarlegt fólk upp úr fastasvefni?"

"Þú mátt reiða þig á, að eg kom ekki í því skyni að sjá framan í smettið á þér aftur," svaraði hinn. "Eg kom hingað af eintómri góðmensku. Hvað hefir þú gert við demantinn?"

"Það kemur þér ekki við," svaraði Gyðingurinn. "Hvað er það, sem þú vilt mér?"

"Eg sagði þér, að eg færi burt eftir fimm daga" sagði sjómaðurinn. "En nú hefi eg ráðið mig á annað skip, sem siglir klukkan sex í fyrramálið. Eg kæri mig ekki um að vera hér lengur; en af eintómri góðmensku datt mér í hug að sjá þig aftur og gefa þér viðvörun."

"Hvers vegna gerðir þú það ekki strax?" spurði Gyðingurinn og horfði á sjómanninn grunsamlega.

"Eg ætlaði mér ekki að ónýta kaupin," svaraði sjómaðurinn kæruleysislega. "Þú hefðir máske ekki keypt demantinn, ef eg hefði sagt þér alt. Varaðu þig að þú hleypir ekki af skammbyssunni; eg ætla ekki að ræna þig; snúðu henni í aðra átt."

"Við vorum fjórir í því," hélt hann áfram, þegar Gyðingurinn var búinn að gera sem hann bað; "eg, Jack Ball, Nosey Wheeler og náungi frá Burma. Seinast, þegar eg sá Jack Ball, var hann þögull og hæglátur, með hníf í gegn um brjóstið. Ef eg hefði ekki litið vel eftir sjálfum mér, þá hefði eg fengið sömu útreiðina. Og ef þú gáir ekki vel að þér, og gerir ekki eins og eg segi þér, þá ferðu sömu leiðina og Jack."

"Gerðu þig ofurlítið skiljanlegri," sagði Gyðingurinn. "Komdu aftur fyrir. Eg kæri mig ekki um að lögreglumennirnir sjái ljós í glugganum um þetta leyti."

"Við stálum honum," sagði sjómaðurinn, um leið og hann fylgdi Gyðingnum eftir, "stálum honum frá—"

"Eg kæri mig ekki um að heyra neitt um það," greip Gyðingurinn fram í snögglega.

Sjómaðurinn brosti, eins og hann skildi ástæðuna, og hélt svo áfram: "Við Jack vorum sterkari en hnir og náðum demantinum frá þeim; en svo náðu þeir sér niðri á Jack, greyinu. Eg kom hingað á seglskipi, en þeir komu með gufuskipi og sátu fyrir mér hér."

"Nú, og ertu hræddur við þá?" spurði Gyðingurinn. "Og svo þyrftirðu ekki annað en að láta löregluna vita að—"

"Og segja henni frá demantinum," sagði sjómaðurinn. "Þú mátt gera það í minn stað nú, ef þú vilt. Og þeir kunna alla söguna um hann, svo ef þeir næðust, þá segðu þeir hana."

"Hafa þeir elt þig?" spurði Gyðingurinn.

"Elt mig!" sagði sjómaðurinn. "Elt er ekki rétta orðið. Þeir sitja um að gera mér mein, en

þeir gá að sjálfum sér; og eg stend betur að vígi þar. Þeir vilja ná í steininn aftur, og svo vilja þeir hefna sín. Þess vegna er eg að vara þig við þeim. Þeir vita, hver hefir demantinn núna. Þú getur þekt Wheeler á því að hann er nefbrotinn."

"Eg er ekki hræddur við þá," sagði Gyðingurinn; "en eg þakka þér samt fyrir að hafa sagt mér frá þeim. Eltu þeir þig hingað?"

"Eg er ekki í neinum vafa um það, að þeir bíða eftir mér úti," sagði sjómaðurinn; "þeir koma á eftir mér eins og kettir. Maður þyrfti að hafa augu í hnakkanum til þess að verða var við þá. Náunginn frá Burma er gamall maður, en liðugur eins og köttur. Jack Ball ætlaði að segja mér eitthvað um hann áður en hann dó. Eg vissi ekki hvað það var. Jack greyið var dálítið hjátrúarfullur, en eg veit að það var eitthvað voðalegt. Jack var hugaður eins og ljón, en hann var dauðhræddur við þenna væskil frá Burma. Þeir fylgja mér til skips, í kvöld, og ef þeir bara koma nógu nálægt mér, þá skal eg hefna Jacks."

"Vertu hérna þangað til í fyrra málið," sagði Gyðingurinn.

Sjómaðurinn hristi höfuðið. "Eg vil ekki missa af skipinu," sagði hann; "en mundu eftir því, að eg hefi sagt þér, að þeir eru fantar báðir tveir, og ef þú gáir ekki að þér, þá ná þeir í þig fyr eða síðar. Góða nótt."

Hann hnepti að sér treyjunni og fór fram að dyrunum; Gyðingurinn fylgdi honum með ljósið í hendinni. Sjómaðurinn opnaði dyrnar og skygndist um varlega til beggja handa. Gangurinn var tómur.

"Taktu þetta með þér," sagði Gyðingurinn og

rétti honum skammbyssuna.

"Eg hefi skammbyssu á mér," sagði sjómaðurinn. "Góða nótt."

Hann gekk djarflega út á götuna og fótatak hans heyrðist vel í næturkyrðinni. Gyðingurinn horfði á eftir honum, þangað til hann var kominn í hvarf, þá lét hann aftur hurðina og lokaði henni vandlega; svo fór hann aftur upp í svefnherbergi sitt og lagðist upp í rúmið og fór að hugsa um það sem sjómaðurinn hafði sagt honum. Loksins sofnaði hann út frá því.

Um morguninn, þegar hann fór á fætur, stakk hann skammbyssunni í vasa sinn áður en hann fór ofan, ekki af því hann byggist við að þurfa að nota hana, heldur í því skyni að vera við öllu búinn. Hann var óvenjulega þyrkingslegur í viðmóti við tvo eða þrjá meinlausa svertingja, sem litu inn til hans, einkum þó við heiðursmann einn frá Asíu, er handlék í ákafa gríðarstóran hníf, sem hann vildi veðsetja, rétt fyrir framan nefið á honum.

Dagurinn leið fram undir hádegið án þess að nokkuð óvenjulegt bæri við, og það var rétt komið að miðdegsverðartíma, þegar nokkuð kom fyrir, sem staðfesti viðvörun sjómannsins. Gyðingnum varð af tilviljun litið út um gluggann og á milli hlutanna, sem héngu í glugganum, sá hann þrælmannlegt andlit með brotið nef. Hann mundi óðar eftir viðvörun sjómannsins. Andlitið hvarf þegar hann leit út og augnabliki síðar gægðist maðurinn, sem átti það inn um dyrnar og kom svo alveg inn.

"Góðan daginn, herra minn," sagði hann.

Gyðingurinn kinkaði kolli og beið eftir meiru.

"Eg þarf að tala við þig," sagði maðurinn;

sem auðsjáanlega var að bíða eftir því að hann segði eitthvað.

"Haltu áfram," sagði Gyðingurinn.

"Hvað er með hann?" sagði sá nefnbrotni og benti með höfðinu í áttina til aðstoðarmannsins.

"Nú, hvað kemur það honum við?" spurði Gyðingurinn.

"Það sem eg hefi að segja þér er leyndarmál," svaraði hinn.

Gyðingurinn sperti brýrnar og sagði: "Þú getur farið inn, Bob, og borðað núna. Hvað viltu mér? Flýttu þér, því eg hefi ekki tíma til að hlusta á þig lengi."

"Eg kem frá félaga mínum," sagði gesturinn; "hann var hér í gærkveldi. "Hann sendi mig, af því hann gat ekki komið sjálfur.. Hann vill fá hann aftur."

"Fá hvern aftur?"

"Demantinn," svaraði gesturinn.

"Demant! Um hvað ertu að tala, maður?"

"Þú þarft ekki að láta svona ólíkindalega," sagði sá nefbrotni með ilskulegum svip. "Við viljum fá demantinn aftur og þú mátt vera viss um, að við fáum hann."

"Farðu út!" sagði Gyðingurinn. "Eg líð engum að vaða inn á mig með hótunum. Farðu út,

"Við skulum gera meira en að hóta þér," sagði maðurinn, og æðarnar á enninu honum þrútnuðu af reiði. "Þú hefir demantinn. Þú fékst hann fyrir tuttugu og fimm hundruð dollara. Við skulum gefa þér það fyrir hann; og þú mátt þykjast heppinn að fá það."

"Annað hvort ertu fullur," sagði Gyðingurinn, "eða einhver hefir logið þessu að þér."

"Það er betra fyrir þig að hætta þessu," sagði hinn. "Eg hefi verið h[illegible]einskilinn við þig. Eg kæri mig ekki um að gera þér nokkuð til meins. Eg er friðsamur maður; en eg vil hafa mitt; og það sem meira er um vert, eg get haft það sem mér ber. Eg hefi hismið og eg get náð kjarnanum líka. Skilurðu mig?"

"Nei, eg skil þig ekki og kæri mig [illegible] um að skilja þig," svaraði Gyðingurinn. H[illegible] [illegible]erði sig til, eins og hann ætti bágt með að [illegible] kyr, og fór að fægja skeiðar, sem lágu þar í [illegible]a.

"Eg er viss um að þú skilur það, sem við þig er sagt, rétt eins vel og hver annar," sagði hinn. "Hefirðu einhvern tíma séð þetta?"

Hann fleygði einhverju á búðarborðið og Gyðingurinn gat ekki að sér gert annað en að líta upp til þess að sjá, hvað það væri. Það var belti sjómannsins.

"Þetta er bending," sagði maðurinn, "og hún nógu greinileg, vona eg."

Gyðingurinn horfði fast á hann og sá, að hann var fölur í framan og órólegur, eins og maður, sem leggur mikið í hættu og gerir sér von um mikinn vinning.

"Eg þykist vita," sagði hann loksins og talaði hægt, "að eg eigi að skilja þetta svo að þú hafir drepið eiganda beltisins."

"Þú getur skilið, hvað sem þ[illegible] [illegible] bezt," sagði hinn og það var einhv[illegible] þrákelknis[illegible]egur grimdarblær í röddinni. "Viltu lát[illegible] [illegible]kkur fá demantinn aftur?"

"Nei," sagði Gyðingurinn bálre[illegible] "Eg [illegible]ræðist ekki annan eins hund og þig. [illegible] [illegible]aði eftir

lögreglunni og léti taka þig fastan, ef eg héldi að það væri ómaksins vert."

"Já, gerðu það," sagði hinn; "eg skal bíða. En taktu vel eftir því sem eg segi: Ef þú lætur okkur ekki fá demantinn, þá skaltu ekki lifa lengi. Hálfur demanturinn tilheyrir félaga mínum. Hann er Austurlanda maður og ekkert lamb að leika sér við. Hann þarf ekki annað en að óska þess, að þú sért dauður, án þess að snerta þig með sínum minsta fingri. Eg kom hingað til þess að gera þér greiða; ef hann kemur hingað, þá er úti um þig."

"Jæja, þú getur farið til hans aftur," sagði Gyðingurinn háðslega. "Jafn fær maður og hann er, ætti að geta náð í demantinn án þess að koma nálægt honum. Þú eyðir tímanum til ónýtis hér, og það er slæmt, því þú átt víst marga góða vini."

"Eg hefi varað þig við hættunni," sagði gesturinn; "þú skalt fá eina aðvörun enn. Ef þú lætur ekki skynsemina ráða, þá heldurðu demantinum, en það verður þér til lítils gagns. Demantinn er mikils virði, en eg fyrir mitt leyti vildi heldur vera án hans og halda lífinu, en að hafa hann og verða að deyja."

Hann rendi augunum illilega til Gyðingsins um leið og hann fór út. Búðarsveinninn, sem var búinn að borða miðdagsmatinn, kom fram fyrir og okrarinn fór sjálfur aftur fyrir til að borða, en matarlyst hans hafði ekki aukist við þessa síðustu heimsókn.

## ÞRIÐJI KAPITULI.

Kötturinn lá hálfsofandi á búðarborðinu með allar lappirnar dregnar inn undir sig. Fáir höfðu komið inn um morguninn og honum hafði ekki

verið ýtt af borðinu nema þrisvar sinnum. Fyrir fimm árum hafði kötturinn helgað sér blett á búðarborðinu, og hvað oft sem honum var ýtt af því, lét hann ekki undan með það að halda í þennan blett, sem hann eflaust þóttist eiga með öllum rétti. Stundum kom það fyrir, að viðskiftamenn, sem inn komu, fóru að dást að kettinum og klóruðu honum á bak við eyrað, og það hafði þau áhrif á hann, að gera hann enn þá rólegri og ánægðari með kjör sín á borðinu.

Í þetta skifti var enginn í búðinni nema kötturinn. Búðarmaðurinn var einhvers staðar úti og okrarinn sat í litlu stofunni fyrir aftan búðina og var að lesa í blaði. Hann var búinn að lesa verzlunarfréttirnar og hafði rent augum snöggvast yfir útlendu fréttirnar; hann var rétt í þann veginn að snúa blaðinu við til þess að líta yfir ritstjórnargreinarnar, þegar hann rak augun í svohljóðandi fyrirsögn: "Morðið í Whitechapel."

Hann las greinina með hálfgerðri ónota tilfinningu. Hún skýrði frá því á svipaðan hátt og flestar morðsögur, að lík af manni, sem auðsjáanlega hefði verið sjómaður, hefði fundist á bak við girðingu fyrir framan búðir, sem verið væri að byggja. Enginn vissi neitt um, hver maðurinn hefði verið; en það væri sýnilegt, að hann hefði verið stunginn í bakið, þar sem hann hafði verið á gangi eftir götunni og svo dreginn þangað sem líkið hefði fundist. Vasarnir höfðu verið tæmdir. Lögreglan skoðaði þetta sem hvert annað vanalegt morð til fjár og byggist við að handsama morðingjana áður en langt um liði.

Okrarinn lagði frá sér blaðið og sló með fingrunum á borðið. Eftir lýsingunni að dæma var

það engum vafa bundið, að líkið var af sjómanninum, sem hafði selt honum demantinn; og dirfska mannsins, sem heimsótti hann daginn áður, strax eftir að morðið hafði verið framið, sýndi, að hann lét sér ekki alt fyrir brjósti brenna. En þetta hafði líka sína björtu hlið, því það sýndi að Leví hafði haft rétt fyrir sér, þegar hann mat demantinn.

Okrarinn fleygði frá sér blaðinu hallaði sér aftur á bak í stólnum og sökti sér niður í ánægjulega dagdrauma. Hann sá í anda sjálfan sig lausan við alt erfiði, og þá ætlaði hann að ferðast og njóta lífsins. Honum þótti verst, að hann hafði ekki fengið demantinn tuttugu árum fyr. En hvað var með veslings sjómanninn, sem búið var að drepa? Honum hefði verið nær að bíða um nóttina eins og honum hafði verið boðið.

Kötturinn, sem enn lá í sínu vanamóki, varð alt í einu var við einhverja sterka og undarlega lykt. Hann opnaði aðra glyrnuna letilega og sá gamlan, horaðan og væskilslegan mann með gulbrúnt andlit, sem stóð við búðarborðið. Honum var ekkert um þennan nýja gest gefið og horfði á hann með hálflokuðum glyrnunum, tilbúinn til alls, þangað til hann sá, að hann var ekki hættulegur, þá lokaði hann augunum alveg.

Það var enginn asi á gestinum. Hann stóð kyr góða stund og horfði í kring um sig. Svo var eins og honum dytti alt í einu eitthvað í hug.

Hann gekk að kettinum og byrjaði að strjúka hann með afar fimlegum handtökum. Kettinum hafði aldrei verið svona vel strokið fyr; hver stroka fylti hann af hreinustu kattarsælu og hann svaraði þeim

á sinn hátt með þessu værðarfulla mali, sem köttum er svo eiginlegt.

En eftir ofurlitla stund þaut kötturinn upp alt í einu, eins og hann væri stunginn. Hann stökk niður af borðinu og faldi sig. Maðurinn brosti lymskulega, svo beið hann ofurlitla stund og bankaði svo með fingrunum í borðið.

Okrarinn kom fram fyrir með blaðið í hendinni. Svipur hans harðnaði, þegar hann sá hver gesturinn var; hann bjóst við nýjum hótunum.

"Hvað er þér á höndum?" spurði hann stuttur í spuna.

"Góðan daginn," sagði hinn á ágætri ensku. "Það er gott veður í dag."

"Veðrið er nógu gott," sagði Gyðingurinn.

"Eg þarf að tala ofurlítið við þig," sagði hinn ísmeygilega; "eg þarf að tala við þig í ró og næði."

"Það er þá bezt fyrir þig að vera ekki með neinar málalengingar," svaraði Gyðingurinn. "Minn tími er dýrmætur."

Gesturinn brosti og bandaði frá sér með hendinni, eins og hann tæki ekki mikið mark á því. "Það er margt, sem er dýrmætt," sagði hann, "en tíminn er dýrmætastur af öllu, því fyrir okkur er tíminn sama sem lífið."

Gyðingurinn skildi hótanina og varð enn þá verri í skapi. "Byrjaðu þá," sagði hann.

Hinn beygði sig yfir borðið og horfði á Gyðinginn með hvössum, dökkum augum, sem ekki voru búin að missa neitt af skarpleik sínum þrátt fyrir aldurinn.

"Þú ert skynsamur maður," sagði hann hægt og rólega, "og ert hygginn kaupmaður. Eg sé það

á þér. En hygnir kaupmenn gera stundum slæm kaup. Og hvað er það sem hygginn kaupmaður gerir, þegar það kemur fyrir?"

"Farðu út," sagði Gyðingurinn reiður.

"Hann gerir það bezta sem hann getur," hélt hinn áfram með hægð; "og hann má þykjast heppinn, ef hann er ekki of seinn til þess að bæta fyrir yfirsjón sína. **Þú ert ekki of seinn."**

Gyðingurinn hló hátt.

"Það var einu sinni sjómaður," sagði gesturinn, "sem gerði slæm kaup, og hann dó af því."

Hann brosti að þessari fyndni sinni þangað til andlitið var alt komið í smá fellingar.

"Eg var að lesa í blaðinu rétt núna," sagði Gyðingurinn, "um sjómann, sem var drepinn. Hefir þú nokkurn tíma heyrt getið um lögregluna og fangelsi og böðulinn?"

"Já, meir en það," svaraði hinn.

"Eg get sent lögregluna af stað til þess að leita uppi þá, sem drápu sjómanninn," sagði Gyðingurinn.

Hinn brosti og hristi höfuðið. "Þú ert of hygginn kaupmaður til þess," sagði hann; "og þar að auki væri ekki auðgert að finna þá."

"Það væri það skemtilegasta, sem eg gæti gert," sagði Gyðingurinn.

"Við skulum nú tala saman um þetta eins og menn með fullu viti, en ekki eins og börn," sagði gesturinn. "Þú talar um gálga og böðul; eg tala um dauðann. Hlustaðu nú ... Fyrir tveimur dögum keyptir þú demant af sjó... ni fyrir tvö þúsund og fimm hundruð dollara. Ef þú færð mér ekki þennan demant aftur fyrir sama verð, þá skal eg drepa þig."

"Þú," sagði Gyðingurinn og rétti úr sér til fulls, "þú, sem ert gamall og skorpinn væskill."

"Já, eg skal drepa þig," sagði hinn með mestu hægð; "eg skal senda þér dauðann í ógurlegri mynd; eg skal senda þér djöful, sem að kvelur þig fyrst og drepur þig svo. Hann skal ráðast á þig í myrkrinu. Það er betra fyrir þig að skila steininum aftur og lifa. Ef þú skilar steininum aftur, þá lofa eg þér því, að þú skalt fá að lifa."

Hann þagnaði og Gyðingurinn tók eftir því að svipurinn á andliti hans hafði breyzt; í staðinn fyrir glettnislega háðssvipinn, sem hafði verið á því, var kominn djöfullegur illgirnis svipur. Augun glömpuðu eins og kalt stál og hann deplaði þeim oft um leið og hann talaði.

Hvað segir þú um þetta?" spurði hann.

"Þetta," svaraði Gyðingurinn, "er mitt svar." Hann beygði sig yfir borðið, tók með hendinni utan um hálsinn á gestinum og hratt honum aftur á bak, svo að hann skall á þilinu á móti. Svo hló hann hátt; en maðurinn, sem hafði hótað honum dauða, hóstaði og hrækti til að reyna að ná andanum aftur.

"Og hvað er með þennan djöful, sem þjónar þér?" spurði Gyðingurinn, eins og til þess að erka hinum.

"Hann þjónar mér þegar eg er fjærverandi," sagði hinn. "Eg gef þér enn þá eitt tækifæri. Eg skal fyrst lofa þér að sjá búðarþjóninn þinn deyja. Nei, hann hefir ekkert til saka unnið. Eg skal drepa—"

Hann þagnaði og kom í sömu svipan auga á köttinn, sem nú kom fram úr fylgsnum sínum. "Eg skal drepa köttinn," sagði hann. "Eg skal senda

djöfulinn til þess að kvelja hann til dauða. Taktu eftir kettinum og þú skalt deyja sama dauða — nema—"

"Nema hvað?" spurði Gyðingurinn.

"Nema þú gerir tvo krossa með krít á dyrastafinn hjá þér fyrir klukkan tíu í kvöld. Ef þú gerir það, þá skaltu lifa. Taktu eftir kettinum."

Hann benti með fingrinum á köttinn, þreifaði á hálsinum á sér og fót út.

Þegar aðrir viðskiftamenn fóru að tínast inn, gleymdi Gyðingurinn þessu. Hann komst í gott skap og umhugsunin um gróðann, sem hann átti í vændum, gerði hann ofurlítið eftirlátari við þá sem komu til þess að þjarka við hann um lán. Gimsteinninn var vafalaust mikils virði. Verð hans og það, sem hann var búinn að nurla saman mundi nægja til þess að hann gæti hætt að vinna og farið að eiga rólega daga. Hann varð svo örlátur við það að hugsa um þetta, að gömul írsk kona, sem kom inn með eitthvert smáræði er hún vildi veðsetja, gleymdi því að þau voru sitt af hverju sauðahúsi í trúarefnum, og bað fyrir honum til allra dýrlinga, sem hún mundi nöfnin á.

Þegar þjónninn var kominn aftur í búðina, fór Gyðingurinn aftur í kompu sína til þess að lesa aftur vandlega frásöguna um morðið. Svo fór hann að hugsa um hvernig hann gæti sagt lögreglunni til um morðingjana, án þess að láta verða uppvíst að þeir stæðu í nokkru sambandi við demantinn stolna, sem hann hafði keypt; en þegar hann var búinn að hugsa um það vel og vandlega, komst hann að þeirri niðurstöðu að það væri ómögulegt.

Hann var vakinn upp af þessum hugleiðingum

með einhverjum hávaða frammi í búðinni og rétt í sömu andránni kom kötturinn í hendingskasti inn til hans, snerist í kring um borðið, þaut út aftur og upp stigann. Búðarmaðurinn kom inn á eftir.

"Til hvers ertu að stríða kettinum?" spurði húsbóndi hans.

"Eg er ekki að því," sagði búðarmaðurinn. "Hann hefir þotið fram og aftur um búðina eins og hann væri vitlaus, og svo rauk hann inn hingað."

Hann fór aftur fram í búðina og okrarinn sat kyr á stólnum og hlustaði á köttinn hendast fram og aftur á loftinu, þó að hann hálf skammaðist sín fyrir að vera hræddur.

"Farðu upp og gáðu að hvað gengur að kettinum," kallaði hann fram til búðarmannsins.

Búðarmaðurinn gerði eins og honum var skipað; en eftir ofurlitla stund kom hann þjótandi ofan aftur og lét hurðina aftur á eftir sér.

"Hvað gengur að honum?" spurði húsbóndi hans.

"Kvikindið er band hringlandi vitlaust," sagði búðarmaðurinn náfölur í framan; "það sendist horna og enda á milli uppi á loftinu. Gáðu að þér, að hann komist ekki hérna inn. Það er ekki hættulaust að verða fyrir honum."

"Hættu þessari vitleysu!" sagði Gyðingurinn. "Kettir láta oft svona."

"Eg hefi aldrei séð það áður," sagði hinn, "og mig langar ekki til að sjá það aftur."

Kötturinn kom í hendingskasti niður stigann, rak sig á hurðina og þaut svo upp aftur.

"Annað hvort hefir honum verið gefið eitur eða hann er orðinn vitlaus," sagði búðarmaðurinn. "Hvað skyldi hann hafa etið?"

Okrarinn svaraði engu. Honum þótti vænt um að hinn stakk upp á því að kettinum hefði verið gefið eitur. Það var ofurlítið viðkunnanlegra heldur en hótanir gula mannsins. En það var undarlegt atvik, að kettinum skyldi hafa verið gefið eitur einmitt núna, nema því að eins að guli gesturinn væri valdur að því. Gat það verið, að gesturinn hefði gefið kettinum eitur án þess að nokkuð bæri á?

"Hann er farinn að hægja á sér núna," sagði búðarmaðurinn og opnaði hurðina í hálfa gátt.

"Já, hann er orðinn góður aftur," sagði Gyðingurinn. "Farðu fram í búðina." Hann var farinn að skammast sín fyrir hræðsluna.

Búðarmaðurinn fór fram fyrir. Gyðingurinn sat kyr stundarkorn til að sannfæra sjálfan sig um, að hann léti í rauninni annað eins og þetta ekki fá á sig; en samt gatt hann ekki að sér gert annað en að fara upp á loftið sjálfur. Það var dimt í stiganum og þegar hann var kominn upp í hann miðjan steig hann á eitthvað mjúkt. Hann rak upp hljóð og leit niður fyrir sig. Kötturinn lá þar steindauður.

---

## FJÓRÐI KAPITULI

Klukkan tíu um kvöldið sátu þeir saman yfir kampavínsflösku, sem búðarmaðurinn hafði verið sendur eftir, okrarinn og vinur hans Leví; þeir töluðu um gimsteinakaupin.

"Þú ert heppinn, Hymans," sagði vinur hans um leið og hann saup á glasinu. "Hundrað og fimtíu þúsund dollarar! Það er ekkert smáræði.

Já, það má nú segja, að það er laglegur skildingur."

"Eg hætti við verzlun hér," sagði Gyðingurinn, " og flyt í burtu um tíma. Mér er ekki óhætt hér."

"Ekki óhætt?" spurði Leví undrandi.

Okrarinn sagði honum alla söguna um heimsókn gamla mannsins.

"Eg skil ekki þetta með köttinn," sagði Leví, þegar hinn var búinn; "það var gert til að hræða þig. Hann hlýtur að hafa gefið honum eitur."

"Hann kom ekki nálægt honum," sagði okrarinn; "kötturinn var í hinum endanum á búðarborðinu."

"Hvaða fjárans þvættingur er þetta," sagði Leví í vondu skapi; honum gramdist að geta ekki fundið neina úrlausn í þessu leyndarmáli. "Þú leggur þó ekki trúnað á dularfull fyrirbrigði og þess konar vitleysu. Við erum hér í miðri Lundúnaborg og öldin, sem við lifum á, er kölluð sú nítjánda. Þetta hefir lagst í taugarnar á þér. Hafðu augun opin og haltu kyrru fyrir inni; þeir geta ekki gert þér neitt hér. En hví annars ekki að aðvara lögregluna?"

"Eg kæri mig ekkert um neinar spurningar í sambandi við þetta," svaraði Gyðingurinn.

"Það mætti segja þeim, að tveir eða þrír grunsamlegir náungar hefðu verið að flækjast hér í nágrenninu núna nokkur kvöld," sagði hinn. "Þeir verða ekki lengi á sveimi hér, ef þeir sjá að það eru hafðar gætur á þeim; þess konar náungar eru ekki eins hræddir við neitt og einkennisbúninga."

"Eg vil hreint ekki hafa neitt með lögregluna að gera," svaraði Gyðingurinn ákveðinn.

"Jæja, láttu þá búðarmanninn sofa hér," sagði hinn.

"Eg held eg geri það á morgun," svaraði Gyðingurinn; "eg þarf fyrst að láta flytja rúm handa honum hingað."

"Hví lætur þú hann ekki byrja að sofa hér strax núna?" spurði Leví.

"Hann er farinn," svaraði Gyðingurinn. Heyrðir þú hann ekki loka?"

"Hann var í búðinni fyrir fimm mínútum," svaraði Leví.

"Hann fór út klukkan tíu."

"Eg gæti svarið, að eg heyrði til einhvers fyrir framan fyrir einni eða tveimur mínútum," sagði Leví og horfði fast á vin sinn.

"Það er eitthvað að leggjast í taugarnar á þér, eins og þú sagðir um mig rétt áðan," sagði Gyðingurinn hlæjandi.

"Jæja, eg hélt nú að eg hefði heyrt til hans. Það væri ekkert á móti því fyrir þig að loka hurðinni vel."

Gyðingurinn fór fram í búðina og gekk vel frá hurðinni. Hann skimaði hirðuleysislega í kring um sig í búðinni um leið.

"Máske að þú gætir verið hér sjálfur í nótt?" sagði hann um leið og hann kom aftur inn í stofuna.

"Það er mér alveg ómögulegt," svaraði Leví. "En meðal annara orða, getur þú ekki léð mér skammbyssu? Það er ekki hættulaus skemtun að heimsækja þig meðan allir þessir morðingjar eru á sveimi. Hver veit nema þeim gæti dottið í hug að drepa mig, til þess að sjá hvort eg hefi ekki steininn."

Gyðingurinn fór fram í búðina og sótti tvær skammbyssur og nokkur skothylki. "Veldu úr," sagði hann.

"Eg hefi aldrei skotið úr skammbyssu á æfi minni," sagði Leví; "en það er víst um að gjöra að gjöra sem hæstan hvell. Hver þeirra er bezt til þess?"

Gyðingurinn ráðlagði honum hverja byssuna hann skyldi taka, og þegar hann var búinn að sýna honum hvernig hann ætti að nota hana, þóttist Leví geta hitt hvað sem væri eins hæglega eins og stein í vegg.

"Lokaðu herbergjunum þínum vandlega í nótt og láttu Bobb byrja að sofa hér á morgun," sagði hann um leið og hann stóð upp til að fara. "En, heyrðu, væri það nú ekki heillaráð að setja þetta krítarmark á dyrustafinn rétt í kvöld? Þú getur svo tekið það af og hlegið að þeim á morgun. Það er eitthvað páskahátíðarlegt við það."

"Þó að allir heimsins morðingjar kæmu hér, dytti mér ekki í hug að marka dyrustafi mína þeirra vegna," sagði Gyðingurinn reiður um leið og hann stóð upp til þess að fylgja kunningja sínum til dyra.

"Jæja, eg býst við að þér sé óhætt inni í húsinu," sagði Leví. "Það er samt nógu fjandi skuggalegt hérna í búðinni. Eg get vel ímyndað mér, að uppáhalds djöfull þessa gula vinar þíns felist hér í einhverju skotinu reiðubúinn að stökkva á þig."

Okrarinn rumdi eitthvað svo lágt að varla heyrðist um leið og hann opnaði dyrnar.

"En sú bölvuð þoka," sagði Leví. Þokukúfurinn kom veltandi inn um dyrnar um leið og þær

voru opnaðar. "Það er ómögulegt að hitta nokkuð í þessu veðri."

Þeir stóðu báðir kyrrir í dyrunum stundarkorn og reyndu að rýna í gegn um þokuna. Fótatak heyrðist í ganginum og risavaxinn maður kom fram úr þokunni. Sér til mikils hugarléttis sá Leví að þetta var lögreglumaður.

"Þetta er auma myrkrið," sagði lögreglumaðurinn við Gyðinginn.

"Já, það má nú segja," svaraði hinn. "Viltu gera svo vel og hafa gætur á búðinni minni í nótt? Það hafa tveir grunsamlegir náungar verið að flækjast hér nýlega."

"Eg skal gera það," sagði lögreglumaðurinn um leið og hann fór burt með Leví.

Okrarinn lokaði hurðinni fljótt á eftir þeim og keyrði slagbrand fyrir hana. "Honum datt í hug spaug vinar síns um djöful gula mannsins um leið og honum varð litið undir búðarborðið, og það fór hrollur um hann. Honum hafði aldrei fundist þögnin í búðinni ægileg fyr en nú. Hann var hálft í hverju að hugsa um að opna búðina aftur og kalla á þá, en hætti við, því bæði hélt hann að þeir væru komnir of langt til að heyra til sín, og eins hitt, að einhver gæti leynst í þokunni fyrir utan.

"Á, svei," sagði hann upphátt, "hundrað og fimtíu þúsund dollarar!"

Hann kveikti á gasinu og lét það loga eins mikið og hann gat. Maður, sem hafði grætt hundrað og fimtíu þúsundir gat veitt sér það að hafa bjart í kring um sig. Hann leitaði vandlega undir búðarborðinu og í hverju skoti í búðinni og fór síðan inn í kompu sína.

Hvernig sem hann reyndi, gat hann ekki alveg

losað sig við leiðindin og hræðsluna, sem voru í honum. Klukkan var hætt að ganga og eina hljóðið, sem heyrðist, var snarkið og brestirnir í kolaglæðunum í ofninum. Hann gekk yfir að arinhyllunni, leit á úrið sitt og dró upp klukkuna. Þá heyrðist honum alt í einu hann heyra eitthvert þrusk.

Hann lagði niður lykilinn ofur hægt á hylluna og hlustaði. Klukkan hafði nú svo hátt, að hann gat ekkert heyrt fyrir henni. Hann opnaði hana því aftur og stöðvaði pendúlinn með fingrinum. Svo dró hann upp skammbyssu hjá sér og spenti hana; sneri sér síðan að dyrunum og beið átekta.

Fyrst heyrði hann ekkert; svo komu öll þessi einkennilegu hljóð, sem maður í einverunni getur heyrt í húsi að næturlagi. Það marraði í stigatröppunum og það var eins og að eitthvað væri að hreyfast milli þils og veggjar. Hann læddist að hurðinni og opnaði hana; honum sýndist ekki betur en að myrkrið sjálft hreyfðist í stiganum.

"Hver er þar?" kallaði hann.

Svo fór hann aftur inn í herbergið og kveikti á lampanum. "Mér er víst bezt að fara að hátta," sagði hann; "eg er hræddur um, að það sé í mér einhver geigur."

Hann slökti ekki gasljósið í stofunni, og með lampann í vinstri hendinni og skammbyssuna í hinni fór hann upp stigann. Hann opnaði dyrnar á hverju herbergi á loftinu og leit inn. Svo fór hann upp á efra loftið, þar sem öll herbergi voru full af munum, er hlaðið var á hillur með framveggjunum. Honum sýndist hann sjá eitthvað í horni í einu herberginu. Hann fór inn og um leið og hann gekk með fram hillunum öðru megin í her-

berginu, var hann alveg viss um að hann heyrði fótatak hinu megin. Hann flýtti sér fram í dyrnar og hlustaði. Það var steinhljóð. Hann var viss um að sér hefði misheyrst, hætti leitinni og fór inn í svefnherbergi sitt. Hann setti lampann frá sér á borð og sneri sér við til þess að loka herbergisdyrunum, en þá heyrði hann greinilega eitthvert þrusk. Það virtist vera niðri í búðinni. Hann þreif lampann og hljóp niður stigann. Þegar hann var kominn hálfa leið niður, sá hann eitthvað dökkleitt, sem teygði sig upp eftir hurðinni í dyrunum, sem lágu út úr búðinni. Þetta var maður, sem var að draga lokuna frá hurðinni. Rétt í sama bili leit hann við og Gyðingurinn sá andlitið á gula manninum, sem hafði heimsótt hann til þess að fá demantinn. Í sama bili og hann opnaði hurðina skaut Gyðingurinn tveimur skotum úr skammbyssunni. Þegar púðurreykurinn var rokinn í burtu, sá hann að búðarhurðin stóð opin og að guli maðurinn var horfinn. Hann hljóp fram í dyrnar, stóð þar hlustandi og reyndi að sjá eitthvað í gegn um þokuna.

Það var dauðaþögn eftir skotin. Þokan kom veltandi inn um dyrnar. Han stóð og beið, vonandi að skotin hefðu máske heyrst, ef einhver hefði átt leið fram hjá. Eftir nokkrar mínútur lokaði hann búðinni og fór aftur upp stigann.

Þegar hann var kominn inn í svefnherbergið sitt, leitaði hann vandlega á bak við húsgögnin og allsstaðar þar sem honum datt í hug að nokkur óvinur gæti leynst. Svo lokaði hann hurðinni, opnaði gluggann og hlustaði. Ekkert hljóð heyrðist neðan af götunni. Hann lét gluggann aftur, fór úr treyjunni og dró öll þyngstu húsgögnin fyrir hurðina. Þegar hann var búinn að því, fanst honum

sem hann væri búinn að reisa sér örugt vígi. Hann settist á rúmstokkinn og fór að hátta; hann dró ögn niður í lampanum, hlóð skammbyssuna aftur og lagði hana á borðið við hliðina á lampanum. Um við og hann lyfti upp rúmfötunum til þess að komst undir þau, sýndist honum eitthvað hreyfast undir þeim; það hröklaðist út úr rúminu hinu megin og datt ofan á gólfið.

Hann sat grafkyrr og horfði til þess að reyna að sjá hvað það væri. Hann hafði rétt að eins komið auga á það, en hann var viss um að það væri einhmver lifandi skepna. Hann hugsaði með sér, að það gæti verið rott. Hann stóð upp, tók lampann og lýsti vandlega með honum um gólfið og undir rúmið. Þegar hann lyfti upp á' reiðunni til að skoða undir rúmið, rak hann hendina nærri því beint framan í djöful gula mannsins og stökk upp í dauðans ofboði.

Lampinn í hendinni á honum rakst á borðshornið og fór í þúsund mola. Olían rann um gólfið og hann stóð þar á sokkaleistunum innan um glerbrotin. Hann tók stökk undir sig, komst upp í rúmið og þar húkti hann skjálfandi af ótta.

Hann reyndi að muna hvar hann hafði látið eldspíturnar og mundi að nokkrar áttu að vera í glugganum. Það var svo dimt í herberginu, að hann sá ekki fótagaflinn á rúminu. Þarna var hann innlokaður í niðamyrkri hjá eiturslöngu, sem guli maðurinn hafði skilið eftir í rúminu hans til að hefna sín á honum.

Hann lá grafkyr og hlustaði. Honum heyrðist einu sinni snákurinn skríða eftir gólfdúknum. Hann fór að hugsa um, hvort hann mundi reyna að skríða upp í rúmið til sín. Svo stóð hann upp og

reyndi að ná í skammbyssuna, en borðið var svo langt frá að hann gat ekki seilst eftir henni. Það brakaði í rúminu undan þunga hans, og hann heyrði hvæsið í snáknum á gólfinu, þegar hann hreyfði sig; hann settist niður aftur og þorði varla að draga andann.

Það var kalt í herberginu. Hann dró rúmfötin saman í eina bendu og vafði þeim utan um sig þangað til ekkert stóð út úr nema höfuðið og hendurnar. Honum fanst hættan verða minni við þetta, þangað til alt í einu að honum flaug í hug að snákurinn gæti verið innan í rúmfötunum. Hann reyndi að berjast á móti hugsuninni og að þvinga sjálfan sig til að vera rólegur. Svo datt honum í hug að tveir snákar hefðu ef til vill verið látnir í rúmið. Þessi hugsun gerði hann svo hræddan, að honum fanst eitthvað hreyfast innan í rúmfötunum.

Hann smokkaði sér með hægð innan úr fötunum, vafði þeim saman og henti þeim yfir í hinn endann á herberginu. Svo skreið hann á fjórum fótum um rúmið og þreifaði fyrir sér; það var ekkert í rúminu.

Hræðslan var svo algerlega búin að fá yfirhönd yfir honum, að hann vissi ekkert hvað tímanum leið. Hvað eftir annað fanst honum snákurinn vera kominn upp í rúmið til sín; óvissan var alveg óþolandi. Hann hugsaði sér að ná í eldspíturnar hvað sem það kostaði, og steig varlega á gólfið; en ekki var hann fyr búinn að setja fótinn á gólfið en hugrekkið brast og hann stökk aftur upp í rúmið.

Hann reyndi ekki aftur að ná í eldspíturnar, heldur sat kyr og beið þess sem verða vildi með

þrárri örvæntingu. Hann gat ekki hugsað; honum heyrðist hann heyra fótatak um alt húsið. Hann langaði til að ná í einhvern mann og berjast við hann upp á líf og dauða. Hann sat kyr og hlustaði. Rotturnar þruskuðu í veggjunum og honum fanst storkandi raddir kalla til sín neðan úr stiganum. Honum fanst myrkrið í herberginu og snákurinn á gólfinu verða að yfirnáttúrlegum öflum, sem legðust á sig til þess að kremja sig og merja. Svo fór loksins að birta. Hann sá móta fyrir glugganum, en hann var of lamaður til þess að geta gert sér grein fyrir hvað feginn hann varð því. Smám saman fór hann að sjá hlutina í herberginu. nóttin var liðin og hann var enn á lífi.

Hann stóð upp og teygði úr sér, þandi út brjóstið og krepti hnefana; honum fanst hann vera svo sterkur að hann gæti boðið öllum byrginn. Það var ekkert í rúminu nema hann sjálfur. Hann beygði sig niður til þess að leita að óvini sínum á gólfinu og beit um leið á jaxlinn út af tilhugsuninni um það hvernig hann mundi tæta snákinn í sundur, þegar hann næði honum. Það var orðið nógu bjart, en fyrst ætlaði hann að láta á sig skóna. Hann beygði sig niður og tók upp annan skóginn, en áður en hann vissi af hafði eitthvað sprottið upp úr honum með eldingar hraða og vafið sig utan um handlegginn á honum.

Gyðingurinn stóð eins og hann væri steinrunninn af hræðslu; augun ætluðu út úr höfðinu á honum. Hann beið og þorði ekki að hreyfa sig. Snákurinn smá linaði á takinu og fór að smá mjaka sér upp eftir handleggnum innan undir skyrtunni. Hausinn færðist þvert yfir brjóstið á honum. Með skerandi örvæntingarópi þreif hann með báðum

höndum um snákinn og reyndi að rífa hann í burtu af brjóstinu á sér. Eitt augnablik hafði hann von um að sér mundi takast það; en svo losaði snákurinn hausinn úr greipum hans og hjó eiturtönninni í hálsinn á honum.

Maðurinn slepti tökum og snákurinn datt niður við fætur hans. Hann beygði sig niður og tók hann upp og kærði sig ekkert um, þó hann styngi sig aftur í hendina. Svo barði hann honum við rúmgaflinn, eins og hann væri óður, fleygði honum á gólfið og tróð á hausnum á honum þangað til hann var orðinn að mauki.

Eftir nokkra stund rann af honum mesta æðið og hann fór að reyna að hugsa, en það var rétt eins og alt snerist í hring í heila hans. Hann hafði heyrt getið um það, að það væri gott að sjúga höggormsbit til þess að ná út eitrinu, en hann hló kuldahlátur að þeirri hugmynd, þegar hann mintist þess í sama vetfangi, að önnur stungan væri á hálsinum á honum. Hann hafði líka heyrt þess getið að dauða hefði verið varnað með því að drekka mikið af áfengi. Hann hugsaði sér að hann skyldi gera það fyrst og svo ná í læknishjálp.

Hann hljóp að dyrunum og fór að draga húsgögnin frá hurðinni. Skammbyssan datt á gólfið. Hann horfði á hana ofurlitla stund, tók hana svo upp og fór að handleika hana, eins og hann væri utan við sig. Hugsunin var farin að skýrast ögn; en einhver máttleysiskend tilfinning var að færast yfir hann.

"Hundrað og fimtíu þúsund dollarar!" sagði hann og studdi köldu skammbyssuhlaupinu á kinnina.

Svo stakk hann því upp í sig, hleypti af og féll dauður niður á gólfið.